# Verkalýðsblaðið

12. tbl. 9. árg. 15. júlí 1980 Verð kr. 400


## OFFRAMLEIÐSLA OG ÖRBIRGÐ

Sjá baksíðu

## Þeir sviku okkur

*Fyrrverandi FNL-ráðherra flýr Víetnam*

Sjá bls. 2

## STÉTTARFÉLÖGIN: BARÁTTUTÆKI EÐA . . .

Sjá opnu

## 21. ágúst 1980

Sjá bls 3

# Of miklar tilslakanir

Þegar lausir samningar BSRB eiga ársafmæli og talsmaður fjármálaráðherra hefur vísað gagntilboði BSRB á bug í útvarpinu sláum við á þráðinn til Helgu Gunnarsdóttur eins talsmanns Áhugasamra félaga í BSRB og spurðum hana álits á gagntilboðinu og um starf ÁF á næstunni.

"Mér finnast of miklar tilslakanir í launakröfum felast í gagntilboðinu á þessu stigi þegar ekki hefur verið reynt að setja þrýsting á kröfur og sýnt að samningsvilji ríkisins er varla til!" segir Helga.

Hún heldur áfram: "Upphaflega kröfugerðin fékk mikið fylgi í félögunum, en nú virðist stefnan hafa orðið undir. Ummæli Þrastar Ólafssonar aðstoðarmanns ráðherra um að annað hvort verði samið strax eða beðið til hausts bendir til þess að blessað ríkið vilji haustið og verkföllin".



Helga Gunnarsdóttir

Um virkni ÁF sagði Helga að þau hefðu farið þess á leit við Kristján Thorlacíus að BSRB hefði opið hús fyrir félaga svo þeir gætu betur fylgst með framvindu samninga og afgreiðslu allra félagslegu réttindanna. Hafi Kristján tekið þessu líklega en ekki talið þetta mögulegt fyrr en í ágúst.

"Við ætlum líka að gera úttekt á gagntilboði BSRB í dagblöðum",- sagði Helga Gunnarsdóttir að lokum.

– agé.

# Ógnvekjandi heræfingar suður af Íslandi



Frá Ocean Safari æfingu NATO.

Í vor og sumar hefur NATO haldið tvær meiriháttar heræfingar í N-Atlantshafi. Í vor héldu NATO-ríkin "Ocean-Safari"-æfingu, sem var liður í undirbúningi fáránlegrar áætlunar um að flytja á aðra milljón hermanna og á annan tug milljóna lesta af hergögnum til bjargar Evrópu ef Varsjárbandalagið réðist á NATO-ríkin – yfir Atlantshafið að sjálfsögðu.

Fyrir fáeinum vikum endurtóku svo Sovétríkin enn eina æfingu í Okeanáætlun sinni. Hún snýst að sjálfsögðu um það að slá "járnhring" utan um Evrópu og hindra verulega hernaðaraðstoð frá Bandaríkjunum. Frá Miðjarðarhafi komu fimm skip (auk kafbáta) vestur fyrir Bretlandseyjar og inn á hafið milli Orkneyja og Íslands. Á móti komu um 15 skip frá Murmansk.

Í æfingunni tóku þátt þyrlu- og flugmóðurskipin Kíev og Lenígrad, auk margra flugvéla. Sovétmenn hafa framkvæmt svipaðar æfingar allt frá árinu 1968. Vekur slíkt spurningar um stöðu Íslands og möguleika á átökum um landið ef til styrjaldar dregur?

Vert er að geta þess að Echo og Charlie-kjarnorkukafbátar Sovétmanna hafa nú fast aðsetur í Malakkasundinu í Suður-Kínahafi sem er aðalsiglingaleiðin milli Asíu og landanna við Kyrrahaf. Sovéskar flotastöðvar eru í Cam Ranh og Da Nang í Víet Nam, en nýbyggð 13.000 manna herstöð á hluta Kúrileyja norðan Japan, en eyjarnar hertóku Sovétmenn 1945 af japönum.

–agé.




# Ásgarður í framför

Blað BSRB, Ásgarður breytti talsvert um form nýverið og lofar sú breyting góðu. Efnismagnið jókst, og miðlar blaðið nýtum upplýsingum til félagsmanna, bæði frá heildarsamtökunum og einstökum aðildarfélögum. Blaðið flytur einnig fréttir af erlendum vettvangi og er það vel. Mér virðist BSRB standa sig betur í upplýsingamiðlun en ASÍ og BHM.

Það sem ég sakna mest í Ásgarði eru skrif og ritdeilur félagsmanna um stefnu í fagfélagsbaráttunni. Full þörf væri áð koma með nýjar hugmyndir um baráttuaðferðir, er henti núverandi aðstæðum og þróa þær með opinni umræðu.

Nokkur dæmi um áleitnar spurningar: Eru ríkjandi hugmyndir um fagfélagsstarfsemi að talsverðu leiti úreltar? Láta félögin til sín taka á nógu mörgum sviðum? Gætu ýmsar listgreinar orðið ríkari þáttur í starfsemi félaganna, glætt hana lífi og laðað fram meiri grósku? Ætti verkalýðshreyfingin að beita sér meira gegn verðbólgu og bæta þannig lífskjörin? Af hverju skrifa hópar eins og "Ný hreyfing" og "Áhugasamir félagar" aldrei í Ásgarð?

# Hin fram sækna Fylking

"styðjum byltinguna í Afganistan gegn afturhaldi og heimsvaldastefnu, herir Sovétríkjanna burt úr Afganistan, verjum verkalýðsríkið Sovétríkin gegn heimsvaldastefnunni" – segir stjórn Fylkingarinnar og harmar að hún skuli hafa lagt höfuðáherslu á kröfuna um brottflutnings hernámsliðsins – mikilvægast sé að styðja framfaraöfl í Afganistan gegn afturhaldi og heimsvaldastefnu. Það munu vera landeigendur, trúarleiðtogar o.fl. ásamt Kína og Bandaríkjunum.

"Innrásin er ekki vitnisburður um útþenslustefnu Sovétríkjanna", – segja sósíalistarnir út Laugaveg, "þau vildu vinveitta ríkisstjórn í Afganistan".

Skyldi það vera vanþakklátt hlutverk að verja verkalýðsríki Brésneffs og kó og svo afgönsku byltinguna auk Olympíuleikanna í Moskvu?

# Þeir sviku okkur

*Fyrrverandi FNL-ráðherra flýr Víetnam*



"Svik Norður-Víetnama komu í ljós strax fyrstu dagana eftir fall Saigon 1975. Við opinbera hersýningu 15. maí var einungis notaður fáni Norður-Víetnam. Ég spurð Van Tien Dung hershöfðingja hvað væri orðið af hinum fjórum herdeildum FNL. Hann svaraði kuldalega: – Það er þegar búið að sameina herina".

Þetta kemur fram í viðtali, sem fyrrverandi dómsmálaráðherra í bráðabirgða-byltingarstjórn Víetnam – stjórn FNL – átti við franska vikublaðið L'Express.

Truong Nhu Tang kom sem flóttamaður til París í mars s.l. Tang var einn af stofnendum FNL. Hann vann leynilega fyrir hreyfinguna í Saigon þar til í Tet-sókninni 1968. 1964 var hann handtekinn og sat í fangelsi í tvö ár. 1967 var hann handtekinn á ný og mátti þá þola harðar pyndingar af hálfu leppstjórnarinnar í Saigon. Eftir níu mánaða fangelsisvist var skipt á hönum og þremur bandarískum offiserum.

Tang var dómsmálaráðherra í bráðabirgðabyltingarstjórninni frá því að hún var stofnuð 1969 og þar til hún var lögð niður 1975.

Í viðtalinu segir Tang að Norður-Víetnamar hafi streymt suður þegar í maí 1975 til þess að taka yfir pólitíska stjórnun og stjórn efnahagsmála. Þeir skiptu á milli sín opinberum byggingum, stærri einbýlishúsum, bílum og jafnvel húsgögnum. Þeim sem voru í bráðabirgðastjórninni var ýtt til hliðar.



Ekki eigum við mynd af Truong Nhu Thang, en hér er mynd af einni af sendinefnd BBS, Nguyen Van Hieu í miðið.

Nú eru einungis þrír úr byltingarstjórninni í áhrifastöðum. Þeirra á meðal er Frú Nguyen Thi Binh fyrrum utanríkisráðherra. Tang segir þessi þrjú í raun vera gísla. Allir hinir eru í lágum áhrifalausum stöðum.

### Mútur

Reynt var að þagga niður í Tang með mútum. Hann fékk sæti á þingi með fullum ráðherralaunum, sem eru ríflega fjórföld laun venjulegra ríkisstarfsmanna. Þar að auki fékk hann ókeypis einbýlishús, bíl og bílstjóra. Hann fékk 13 kg af hrísgrjónum meðan venjulegur skammtur er 200 g.

Tang segist hafa verið svo barnalegur að ráðleggja lögfræðingum í Saigon að fara á 30 daga "endurhæfingarnámskeið". Að mánuði liðnum var enginn þeirra kominn til baka. Þegar hann fór að grenslast fyrir um ástæðuna fékk hann engin svör. Bróðir hans, sem er læknir, hefur verið í endurhæfingu frá frelsuninni. Hann vinnur núna við að safna geitataði sem notað er við áburðarvinnslu.

### Handtökur

Mikið var um handtökur 1975 – '76 en fáir voru teknir af lífi, enda er hægfara dauði í vinnubúðum hagstæðari en áberandi aftökur. Tang telur að fórnarlömb skipti miljónum.

Það sem Tnag fyrst og fremst ásakar Norður-Víetnama um eru svikin loforð og svik þeirra við byltingarstjórnina.

Yfirvöld kenna ytri aðstæðum svo sem náttúruhamförum, þrýstingi frá Kína og stríðinu í Kamputseu um slæmt efnahagsástand. Á sama tíma loka þau augunum fyrir því að almenningur snýr baki við þeim í æ ríkara mæli.

Teng segir andstöðuna vera mesta í suðurhluta landsins. Að hans áliti eru stjórnvöld það illa þokkuð, að þau myndu ekki öðlast traust almennings þó svo stefnunni yrði gerbreytt.

(unnið úr Klassekampen og L'Express) –ei

## Við byrjum á umhverfisvernd

Frh. af bls. 7

íbúðahverfa?

Þetta eru margar og stórar spurningar og sjálfsagt erfitt ef ekki útilokað að gefa tæmandi svar við þeim öllum. Í næstu blöðum er ætlunin að taka fyrir ýmsa þætti umhverfismála bæði hvernig umhverfisvernd er háttað hér núna og hvernig við álítum að standa beri að málum.

-je-

## Til blaðs

Frh. af bls. 6

en blaðið hef ég lesið. Blaðið er viðleitni, en helsti gallinn við það er: of fáar raddir úr hinum venjulega vinnumarkaði. Vesælar raddir sem aldrei þykjast hafa neitt að segja, því sannleikurinn er svo súr, svo ómenningarlegur og venjulegur. Auk þess gæti maður átt á hættu að missa atvinnuna eða minnsta kosti orðið illa liðinn.

Svo er eitt sem ég get alls ekki fellt mig við, það eru MARX-LENIN, löngu dauðir kallar, ég hélt við lifðum núna. Mér finnst MARX-LENIN vera eins og hækjur, þegar sífellt er verið að smjatta á þessu m-l. Hverjir haldið þið, ég meina hvaða verkamenn haldið þið að hafi tíma eða áhuga á að pæla í fræðum MARX og LENINS, ég tala nú ekki um rauðu bókina?

Verkamenn í dag þurfa raunsæi, nútímalegt raunsæi og fyrst og fremst réttlæti.

Launþegi nr.1228.

# Forsetakosningar – stéttabarátta



Í kjöri til embættis forseta Íslands stóð valið á milli fjögurra frambjóðenda. Enda þótt enginn þessara frambjóðenda hefði að baki sér annarskonar skipulagðan stuðning en sjálfboðalið stuðningsmanna, fer ekki á milli mála að í kosningabaráttunni áttust við ólíkar skoðanir, stefnur og hugmyndir um mannanna verk og samfélag. Þessari baráttu var ekki stýrt af stjórnmálaflokkum eða hefðbundnum hagsmunasamtökum. Engu að síður voru forsetakosningarnar hluti þjóðfélagslegrar baráttu sem í sífellu fer fram.

Sú kynning sem frambjóðendur gáfu af sjálfum sér gaf þjóðinni til kynna hvaða hugmyndir þeir hefðu um mannlífið, afstöðu til mikilvægustu þátta þess þjóðskipulags sem byggt hefur verið upp á Íslandi o.s.frv. Starfsferill, kynferði og hjúskaparstaða frambjóðenda, sem svo mjög bar á góma í umræðunni fyrir kosningarnar, eru atriði sem í sjálfu sér eru aukaatriði, ef þau hafa ekki átt þátt í að móta persónur frambjóðendanna. Það er velþekkt vandamál meðal stjórnmálamanna og forráðamanna í háum stöðum að erfitt er að koma í veg fyrir að tengslin við almúgann hverfi, hafi þau að verið fyrir hendi. Þetta er órjúfanlega tengt því stéttskipta þjóðfélagi sem við búum í.

Vigdís Finnbogadóttir sigraði ekki vegna kynferðis síns og makaleysis, heldur þrátt fyrir þetta. Hún sigldi gegn ríkjandi hugmyndum með þetta í farangrinum. En um leið er hún meiri persóna fyrir bragðið, hún þekkir þessi "vandamál" og þorir að standa upprétt eins og flestir aðrir í sömu stöðu. Annað var að heyra á hinum frambjóðendunum – þeir hefðu ekki þorað.

Mikilvægasta ágæti Vigdísar er samt einlægni hennar gagnvart þjóðlegri menningu. Alþýða landsins veit af menningu sinni, það sáum við nú, enda þótt annað sýnist stundum. Kjör Vigdísar er vissulega nokkur sigur í þeirri baráttu að fulltrúar hinna venjulegu almúgamanna sitji í toppstólum þjóðfélagsins, enda þótt forsetaembættið sem slíkt sé ekki það embætti sem úrslitum ræður um stóru málin, sem snerta hag alþýðu manna frá degi til dags.

–Æ.

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 8:30 - 12:30 alla virka daga
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 27810-6 og 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins


# Til hvers er samningsrétturinn?

Fernt gerist nærri samtímis:

Bankar og sparisjóðir snarminnka útlán til hinna fjölmörgu launamanna sem velta á undan sér lánasúpu til að ná endum saman.

Frystihúsin segja upp þús( undum manna vegna fjárskorts sem ekki megrar eigendur og stjórnendur þeirra að því er séð verður.

VSÍ setur óaðgengileg skilyrði fyrir áframhaldandi viðræðum við ASÍ, krefst mikillar skerðingar á vísitölubótum og afneitar launahækkunum.

Ríkisvaldið býður BSRB allt að 2% launahækkun en hafnar gagntilboði BSRB sem tekur til helmingi lægri launakrafna en áður.

Á meðan hafa yfir 60% launafólks grunnlaun undir framfærslukostnaði Hagstofunnar og um helmingur þess hóps er undir 300 þús. kr. markinu.

Á meðan kosta tveir plastpokar af nauðsynjum 10-20 þús. kr., en lítil íbúð 30 milljónir kr.

Ekki er að sjá að flestir forystumenn verkalýðshreyfingarinnar eða yfirlýstir verkalýðsflokkar hafi magakveisu af áhyggjum. En allir sem bölva og vilja ekki láta draga sig á asnaeyrunum fá útskýringar á "aðstæðum, greiðslugetu fyrirtækja og erfiðu árferði" í stað kjarabóta.

Það er ljóst, bæði af stöðu atvinnuvega og verkalýðshreyfingar að launafólk er í varnarstöðu. Miklar kjarabætur eru ekki framundan og mikilvægt að hver haldi sínu. Varnarbaráttuna vantar hins vegar.

Réttmæt gagnrýni á forystuna, kröfur um atvinnuöryggi og samninga strax auk verkfallsaðgerða er hið eina sem getur breytt stöðunni í samningamálunum svo um munar. Eins og horfir má segja að samningsrétturinn sé í raun ekki til og að verkfallsrétturinn sé í raun ekki nauðvörn verkafólks, heldur pappírsgagn.

Eins og horfir geta atvinnurekendur notað uppsagnir til að ýta á eftir ölmusu ríkisins til frystiiðnaðarins af kolvitlausu efnahagskerfi. Stjórnarskrárbundið leyfi til arðráns manns á manni er ekki nothæfur efnahagsgrundvöllur fyrir Ísland. Þeir sem skapa verðmætin eiga að stjórna. Þeir einir geta tryggt alþýðumanna vinnu og mannsæmandi kjör. Fram að því þarf launafólk að feta í fótspor þeirra sjómanna, verkamanna, prentara og opinberra starfsmanna sem hafa dirfst að tala hreint út og berjast undanfarið.

8.júlí/ - agé.

# Inúíta samtök stofnuð

Merkilegir atburðir eru að gerast á Norðurhjaranum. Eftir þriggja ára undirbúningsstarf hafa Inuitar í Kanada, Alaska og Kaladlit Nunat (Grænland) stofnað sameiginleg samtök Inuita.

Á ráðstefnu sem lauk í Nuuk (Godthåb) í Kaladlit Nunat um mánaðarmótin s.l. voru mættir 54 sendifulltrúar frá inuita-samtökum í löndunum þremur.

Mikilvægustu samþykktir ráðstefnunnar voru:

:: Stofnun sameiginlegra samtaka inuita á heimskautasvæðunum til þess að styrkja stöðu þeirra gagnvart stórsamfélaginu.
:: Stofnun háskóla fyrir inuita.
:: Samþykkt um verndum dýrategunda á heimskautinu sem ógnað er með útrýmingu.

Hinum nýju samtökum var valin stjórn, þar sem er formaður og tveir fulltrúar frá hverju landanna þriggja. Inuitasamtökin munu halda ráðstefnur annaðhvert ár.

Inuitarnir eiga sameiginlegt upphaf tungumáls og menningar. Þeir eiga einnig það sameiginlegt að vera undirokaðar þjóðir.

-Æ.

# Kennarar sameinast

Samtökum kennara hefur fækkað talsvert síðustu ár. Fyrir röskum mánuði sameinuðust tvö kennarasambönd, LGF og SGK, í Kennarasamband Íslands.

Ekki er björninn þar með unninn. Brýnt er að byggja upp smærri einingar og glæða lífi. Á ég þar við félög kennara innan einstakra skóla, hverfa, bæjarfélaga eða landshluta. Félög bundin við einstakar kennslugreinar (t.d. fél. íslenskukennara eða tungumálakennara) gegna þýðingarmiklu hlutverki við þróun kennsluhátta og námsefnis.

Starf kennara er afar þýðingarmikið. Það veltur ekki síst á þeim, hvort komandi kynslóðir öðlast þekkingu og þroska til að skapa mannsæmandi þjóðfélag. Hröðþróun náttúruvísinda og hugvísinda og aukið uppeldishlutverk skólanna leggur mikla vinnu og ábirgð á kennara. Þeir verða að fylgjast manna best með og endurskoða sífellt þekkingu sína og vinnubrögð.

Kennarar gegna lykilhlutverki við þróun menntunar í landinu. Þátttaka kennara í þróun skóla og kennslu hefur ekki verið nógu almenn. Bág launakjör ásamt oft og tíðum full stífu lífsgæðakapphlaupi hefur knúið marga kennara til að vinna aðra launaða vinnu auk kennslunnar eða þrotlausa yfirvinnu í skólunum og gefst þá ekki nægur tími til endurmenntunar og félagsstarfa.

Ekki þýðir að treysta eingöngu á fáeina starfsmenn menntamálaráðuneytisins og á innflutt kennsluefni og skólakerfi. Ef félög kennara sofna á verðinum, dregst skólakerfið og menntunin aftur úr og steinn er lagður í götu þróunar þjóðfélagsins.

þöá


Frá þingi hinna nýstofnuðu kennarasamtaka



Aðgerðir herstöðvaandstæðinga 21. ágúst í fyrra

# 21. ágúst 1980

Þann 21. ágúst 1968 gerðu Sovétríkin innrás í Tókkóslóvakíu. Undanfarin ár hefur þessari innrás verið mótmælt hér á landi með aðgerðum 21. ágúst. Fyrir þessum aðgerðum hafa ýmsir aðilar staðið, en vissulega hefðu þær mátt vera fjölmennari og kraftmeiri.

Í ár eru 12 ár frá innrásinni, og nú hafa Sovétríkin einnig ráðist inn í Afganistan af mikilli grimmd. Það er því kannski enn meiri ástæða til öflugra mótmæla gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna en oft áður. Verkalýðsblaðið hafði samband við nokkra aðilja og spurði hvort þeir fyrirhuguðu aðgerðir í ár.

Þorsteinn Magnússon hjá Æsklýðssamtökum sósíalista sagði slíkt ekki hafa komið til tals hjá sínum samtökum.

Margrét Björnsdóttir formaður Alþýðubandalagsins í Reykjavík, sagði að málið hefði ekki verið tekið upp, en það yrði gert á næsta stjórnarfundi.

Guðmundur Georgsson formaður Samtaka herstöðvaandstæðinga sagði að enn hafi ekki neitt verið planlagt varðandi þetta, en kvaðst mundu taka málið upp á næsta miðnefndarfundi.

Jón Magnússon formaður Sambands ungra sjálfstæðismanna sagði að SUS hafi staðið fyrir aðgerðum fyrir tveimur árum, en ekki væru neinar ráðgerðar á þessu ári.

Og nú er bara að vona að víðtæk samstaða náist og mótmælin verði kröftugri en nokkru sinni fyrr.

Hafst.




# Ísbjarnarblús

Nýlega kom út hljómplata með Bubba Morthens. Bubbi hefur undanfarin ár sungið við eigin gítarundirleik á samkomum ýmissa vinstri hópa, og getið sér gott orð fyrir. Á plötunni eru nokkur þeirra laga sem hann hefur sungið á þessum samkomum, en einnig fleiri. Lögin eru sett í nýjan búning, því nú er leikið á fleiri hljóðfæri. Textarnir eru flestir eftir Bubba og fjalla þeir bestu um sjómanna-og frystihúsalífið. Hann lýsir því á umbúðalausan og kjarnyrtan hátt. Og hann ætti að vita hvað hann er að segja, því sjálfur hefur hann unnið við fisk sem farandverkamaður í nokkur ár. Lýsingarnar á vinnuþrælaríinu og aðbúnaði verkafólks eru ófagrar en því miður alltof sannar.

Aðrir textar Bubba eru sæmilegir, til dæmis kemur viðbjóðurinn við aftöku Agnesar og Friðriks vel fram í textanum um hana. Jón pönkari er góður texti, sömuleiðis Grettir og Glámur, en þeir eru ekki eftir Bubba. Þegar ég segi að textar Bubba séu góðir, þá á ég aðallega við innihald þeirra, það er eitthvað nýtt í íslensku poppi. Hinsvegar mættu þeir að ósekju vera vandaðri.

Tónlistin er yfirleitt góð og fellur vel að textunum. Hrjúf,þar sem það á við og ljúf, þar sem það á við. Einn mesti hnökrinn á plötunni finnst mér vera m.b. Rosinn. Flutningurinn á því lagi er skelfilegur og miðað við annað á þessari plötu fyrir neðan allar hellur.

En platan hlýtur að vera kærkomin róttæku fólki og rokkunnendum vegna innihalds síns. Megi hér verða framhald á, því mál er að linni innihaldssnauðum og stundum afturhaldssömum dægurlagatextum sem bókstaflega hafa tröllriðið öllu í íslenskri popptónlist.

Platan kostar 10600 krónur og fæst víða, m.a. í Októberbúðinni.

Hafst.

verkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfi
verkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfi
verkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfi

# STÉTTARFÉLÖGIN:

Um stöðu verkalýðshreyfingarinnar hefur mikið verið ritað í málgögn íslenskrar vinstrihreyfingar á undanförnum árum. Hafa yfirleitt verið felldir þungir dómar og óskilorðsbundnir. Þannig hefur allur þorri forystu verkalýðshreyfingarinnar verið stimplaður sem stéttasamvinnusinnaður og uppkeyptur. Þessum dómum er það flestum sameiginlegt, að þeir eru felldir, án nokkurrar verulegrar starfsreynslu í stéttarfélögunum.

En það er víðar rætt um stéttarfélögin en á síðum vinstri blaðanna. Á vinnustöðum er sem betur fer talað um stöðu hreyfingarinnar, þó ekki sé sú umræða umfangsmikil. A.m.k. er það mín reynsla. Óánægja er býsna útbreidd, menn skammast út í forystuna, félagsfundirnir eru gjarnan kallaðir já- samkomur, menn tala um að kjörin séu slæm og lítið gert til að bæta þau, vonlaust, eða vonlítið sé að hafa áhrif innan félagsins o.s.frv. Mín reynsla er sú, að ákaflega fáir eru ánægðir með starf félaganna, en hins vegar er líka of lítill vilji fyrir hendi til að breyta ástandinu. Við þetta má svo bæta, að iðulega er því haldið fram, að félögin séu fyrst og fremst orðin handbendi stjórnmálaflokka og þjóni þeim jafnvel fremur en sínum eigin umbjóðendum. Varla að ósekju.

## Hvað segir reynslan?

Ég hef verið meðlimur í Félagi járniðnaðarmanna í Reykjavík í tæpt ár, hef sótt félagsfundi reglulega og verið virkur á flestum fundum. Þetta er ekki langur tími, en mikilvægur skóli samt. Mæting hefur verið frá 5 - 10% félagsmanna. Þátttaka fundarmanna hefur yfirleitt verið lítil. Formaður og stjórn félagsins hafa gjarnan tekið ríflega helming fundartímans til að gera ýmsum málum skil. Tillögur hafa fremur verið lagðar fram til afgreiðslu en umræðu. Stór hluti þeirra sem mætir á fundina virðist bera mikið traust til forystunnar og stendur vörð um hana. Forysta félagsins virðist sátt við ástand félagsins, og tortryggir mjög allar tillögur, sem ekki eru frá henni komnar. Tillögur sem snerta mikilvæg mál, fá yfirleitt ekki afgreiðslu heldur er vísað til stjórnar, og þykja það

# Hvað vilja kommúnistar?

Stefna Einingarsamtakanna og Kommúnistaflokksins í kjaramálum var fjölbreytt á starfsárum þeirra og sjaldan gallalaus. En hver er stefna hinna nýju Kommúnistasamtaka ?

Kommúnistasamtökin þurfa um margt að byrja sem nýgræðingur í stjórnmálum. Stefnumótun þeirra er þegar hafin og hún byggir að sumu leyti á arfi frá EIK og KFÍ. Skoðum féina þætti um kjaramál, verkalýðshreyfinguna og nýjan verkalýðsflokk.

## Lífvænleg laun

Krafan um lífvænleg laun fyrir 6 - 8 st. dagvinnu er órjúfanlega tengd umbyltingu þjóðfélagsins. Það er nánast útilokað að gera ráð fyrir því að launafólk almennt nái svona kjörum meðan auðskipulagið er við lýði. En vinnandi fólk berst að sjálfsögðu fyrir auknum kaupmætti og bættum kjörum, menn bíða ekki eftir endalokum arðránsþjóðfélagsins. Þar eru kommúnistar þátttakendur og þeir reyna af alefli að tengja krónubaráttuna við baráttuna fyrir þjóðfélagsvöldum verkalýðsins.

Launakröfur sem kommúnistar hafa hvatt til baráttu fyrir miðast oftast við kröfur sem þeir telja að meirihluti fólks geti fylkt sér um. Á síðustu árum, þegar klipið er jafnt og þétt af kaupmættinum, er oft miðað við umsaminn kaupmátt síðustu samninga og þannig reynt að vinna upp kjararánið.

Okkur þykir því rétt núna að styðja kröfur BSRB og ýta á eftir samningum með verkföllum opinberra starfsmanna. 5% kröfu ASÍ teljum við of lága en þó er mikilvægt að menn standi fast á henni eins léleg og baráttugeta ASÍ er um þessar mundir. Sérkröfur einstakra stéttarfélaga eru þeim mun mikilvægari.

Kommúnistar krefjast fullra vísitölubóta þannig að verðbólgan nái ekki að minnka kaupmátt umsaminna launa. Þeir eru andsnúnir hugmyndum Verkamannasambandsins um millifærslu fjármuna milli launahópa, en vilja launajöfnun með fækkun launaþrepa og launahækkunum til láglaunafólks. Um skattamál verður ekki fjallað að sinni.

## Burt með stéttasamvinnu

Starfshættir verkalýðshreyfingarinnar verða að breytast mikið. Pólitísk stefna margra forystumanna stéttarfélaganna er stærsta hindrunin í baráttunni fyrir endurbótum á hreyfingunni. Með samstöðu og virkni almennra félaga er hægt að hafa mikil áhrif á þessa forystu. Samt er nauðsynlegt að yfirbuga stéttasamvinnustefnuna sem byggir á þeirri blekkingu að hagur fyrirtækja og starfsmanna fari saman hvað snertir laun. Aukin framleiðsla og verðmætasköpun er forsenda launahækkana, segja þessir menn, og aðstoða auðstéttina við að viðhalda gróða sínum. Stéttarfélögin verða ekki baráttutæki og kjörin batna ekki verulega nema unnið sé gegn stéttasamvinnunni. En það er hlutverk kommúnista og annarra baráttusinna innan hvers félags að ákveða hvernig þessu andófi skuli hagað. Víða er mjög brýnt að skipta um stjórnarmenn félaga, en sums staðar liggur meira á því að gefa félagsmönnum kost á að fylgjast með félagsmálefnum og taka þátt í stéttarlegri fræðslu. Nýjar fundaraðferðir verða líka að koma til. Það verður að hlusta á gagnrýni félagsmanna en eyða henni ekki með "útskýringum". Skipulagsmál verður að endurskoða. Kröfur um lýðræði í verkalýðshreyfingunni eru ekki háværar en mjög útbreiddar. Það er sjálfsögð krafa að félagsmenn taki meiri þátt í kröfugerð fyrir samninga og geti betur fylgst með samningaviðræðum en hingað til. Samningarnir eiga að vera í höndum sérsambanda og félaga að miklu leyti.

Öfugþróun verkalýðshreyfingarinnar hefur gengið svo langt að hún er nærri máttlaus núna þegar samningar eru dregnir endalaust og laun eru svívirðilega lág hjá um 60% launafólks.



Að ofan: Verkfall ísfirskra sjómanna var í óþökk verkalýðsforystunnar í Reykjavík

Í miðið: Verkalýðsforingjar á fundi

Að neðan: Alþýðubandalagið metur meir setu í ríkisstjórn en kjarabaráttu



## Flokks er þörf

Ávinningar í kjarabaráttunni og umbætur innan hreyfingar launafólks eru fyrst og fremst verk fjöldans. Hlutverk kommúnista er að vinna með fjöldanum og efla samstöðu hans. Þess vegna er nauðsynlegt og óhjákvæmilegt að safna saman framsæknum og stéttvísum mönnum í stjórnmálasamtök eftir því sem sá hópur stækkar. Þessi samtök eru verkalýðsflokkur - flokkur sem mótar alhliða stefnu, getur verið stoð í fjölbreyttri baráttu fólks, getur tengt slíka baráttu saman við alla stéttabaráttu þjóðfélagsins og bent fram á við í sífellu. Verkalýðsflokkur er miðstöð fræðslu um baráttuaðferðir og fræðikenningu verkalýðsins.

Ekki er til nein uppskrift að svona flokki. Eitt er þó víst, hans er þörf. Eins og auðstéttin og óhæfir verkalýðsforingjar (alls ekki allir) verða að styðjast við öfluga stjórnmálaflokka, þá verða sósíalistar, kommúnistar og

verkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyf
verkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyf
verkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyf

nginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshr
nginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshr
nginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshr

# BARÁTTUTÆKI EÐA . . .

yfirleitt ill örlög.

## Undirbúningur kjarasamninganna

Það er býsna fróðlegt að skoða hvernig það gerðist. Fulltrúar félagsins fara á kjaramálaráðstefnu ASÍ s.l. haust án þess að nokkur umræða hafi farið fram innan félagsins um kjaramálastefnu. Nefndir kosnar á ráðstefnunni, mótuðu síðan stefnuna í félagsmálum og kjaramálum og það var síðan tekið fyrir á ráðstefnu í desember. Þáttur félagsins varð fyrst og fremst sá að staðfesta áður teknar ákvarðanir. Strax s.l. haust kom fram megn óánægja með samflotin og virtist sú óánægja býsna útbreidd. Formaðurinn tók sumpart undir þá gagnrýni. Hins vegar var forðast að taka afstöðu við skyldum sjá til og bíða. Allan tímann var samt ljóst að stefnt var að þátttöku í samflotinu og sú varð náttúrulega raunin. Þeim sem vildu semja sér, var svarað með því, að einir sér værum við vonlausir, eða svo gott sem og því jafnvel haldið fram að aðrir hlutar verkalýðshreyfingarinnar mundu taka þátt í að knésetja okkur. Óánægja með samflotin og kröfugerð hreyfingarinnar var alls ekki bundin við félagsmenn úr félagi járniðnaðarmanna eingöngu. Óttinn við hefndarráðsafanir af hálfu heildarsamtakanna virtist hafa mikið að segja til að halda samflotinu saman. En formlega var málamynda lýðræði fylgt. Kröfugerðin og þátttaka í samflotinu voru borin undir trúnaðarráðsfund og félagsfund og samþykkt.

Kosin samninganefnd hefur verið lítið virk, eftir að samningar urðu lausir, ábyrgðin að mestu hvílt á formanni. Sennilega samkvæmt eigin ósk og venju.

## Andstaða innan félaganna

Nokkrir einstaklingar mynduðu andstöðuhóp innan félagsins, en fengu frekar lítinn hljómgrunn. Má þar bæði um kenna lítilli fundarsókn, og of mikilli óþreyju af okkar hálfu, alla galla átti að laga í einu vetfangi, auk þess sem starf okkar einkenndist af skilyrðislausri andstöðu við flestar eða allar gerðir forystunnar.

Við drógum þá lærdóma m.a. af vetrinum, að við yrðum að leggja mesta áherslu á þau mál, sem eru á dagsskrá innan félagsins, fremur en að draga önnur þar inn. Reynslan kenndi okkur, að það er nauðsynlegt að koma vel undirbúinn á alla fundi, eða a.m.k. einhver úr hópnum, koma með nýjar hugmyndir og geta staðið við það sem maður segir. Reynslan kenndi okkur líka, að einhliða afstaða til forystunnar er hættuleg og veldur okkur sennilega meiri skaða en henni. Afstaða til stefnu og gerða stjórnar hlýtur ævinlega að vera tekin eftir málefnum, ef rétt er unnið.

Okkur sýndist líka eftir þennan vetur, að við yrðum ekki síður að leggja mikla áherslu á vinnustaðina, ef við ætluðum að geta unnið upp virkni í félaginu og leggja þá mesta áherslu á að fá menn til starfa innan félagsins, bæði að kjaramálunum og ekki síður þó að eflingu félagsstarfs og baráttu fyrir auknu lýðræði og fjöldaþátttöku.

Ragnar.

Skipulagsmynd Alþýðusambands Íslands

ASÍ
Þing Alþýðusambands Íslands
Sambandsstjórn
Miðstjórn
Skipulagsmálanefnd
Skrifstofa A.S.Í.
Iðnsveinaráð
Félagsmál
Hagræði deild
Almenn skrifstofa
Bókhald Endursk.
Hagfræði deild
Landssambönd
Svæðasambönd
Svæðaskrifst.
Félög í Landssamb.
Félög með beina aðild
Orlofsheimili
M F A
Félagsmálaskóli
Sögusafn verkalýðshreyfingar
Vinnan
Listasafn
Bréfaskóli
Alþýðuorlof
Ferðaskrifst. Landsýn
Alþýðubanki

Skipulag Alþýðusambandsins

Mjólkurbúðabaráttan var dæmi um hvernig verkafólk á að bregðast við stéttasamvinnusvikum forystunnar

aðrir verkalýðsinnar að gera það líka. Svona verkalýðsflokkur verður bæði að hafa styrka stjórn og skipulag og gott lýðræði. Þá er hann ekki bitlaus heldur einhuga í framkvæmdum. Hann sér til þess að flestir félagar flokksins séu virkir, bæði í baráttu, upplýsingastarfi og stefnumótun. Og vegna þess að marxisminn er samþjöppuð reynsla verkalýðsstéttarinnar um langan aldur, er hann grundvöllur flokksins. Unnið er að því að aðlaga hann íslenskum aðstæðum. Tengsl flokksins við fjöldasamtök verða til með starfi félagsmanna hans innan þeirra, og markmiðið er m.a. að fá verkalýðsfélögin til að styðja sósíalismann.

\- agé

# Með hverjum stendur Alþýðubandalagið?

Alþýðubandalagið hefur meiri áhrif á stefnu og afstöðu forystu samtaka launafólks en aðrir stjórnmálaflokkar. Þessa sterku stöðu AB má rekja annars vegar til þess að flokkurinn tók að mestu við sterkri stöðu Sósíalistaflokksins og hins vegar til þess að AB hefur virkari félagafjölda í samtökum launafólks en aðrir flokkar, enda þótt virknin sé almennt lítil.

## Stefna Alþýðubandalagsins

Enda þótt almennt sé talað um að AB eigi sér pólitíska stefnu er ákaflega erfitt að finna hana. Hvað snertir stefnu í málefnum samtaka launafólks, en um hana verður fjallað hér, er fátt bitastætt að finna. Þessi "málsvari" launafólks hefur nefnilega margar stefnur gagnstæðar í málum launafólks, þegar litið er til lengri tíma. Í þessum málum, sem flestum fer allt eftir því hvort flokkurinn er í eða utan ríkisstjórnar.

Undanfarnar vikur hefur Þjóðviljinn og AB ekki átt nógu stór hallmæli um VSÍ og óbilgjarna afstöðu atvinnurekendavaldsins. Undir þær skammir skal tekið fullum hálsi. Hins vegar undanskilur Þjóðviljinn stærsta atvinnurekandann – ríkið – sem er með alla opinberu starfsmennina í vinnu. Þar er ámóta óbilgirni að mæta og hjá VSÍ. Þeir Þorsteinn Pálsson og Ragnar Arnalds eru í raun og veru í sama báti með svipaða afstöðu til launafólks. Í afstöðu Ragnars Arnalds, sem fjármálaráðherra og yfirmanns samninganefndar ríkisins við BSRB, er fólgin stefna AB í kjaramálum opinberra starfsmanna og raunar á hún líka við gagnvart ASÍ. Þjóðviljaskammirnar út í VSÍ verða lítið trúverðugar þegar forystumenn AB í ríkisstjórn eiga sömu skammir skyldar.

Eitt af stóru málunum í yfirstandandi samningum eru verðbætur á laun. Maður skyldi ætla að "verkalýðsflokkurinn" hafi skýrt markaða stefnu í þeim málum.

"Launamenn eiga réttláta kröfu til þess, að laun séu verðtryggð samkvæmt samningum hverju sinni." (tillögur AB í efnahags- og atvinnumálum – Aukablað Þjóðviljans maí 1978, bls. 13.) Þetta er til marks um skýra stefnu og kannski frekar um hnitmiðaða kröfugerð. AB krefst ekki fullra verðbóta, heldur þess að verðbæturnar verði umsamdar. Skiljum við þá ekki í dag hvers vegna AB á svona auðvelt með að snúast gegn réttmætri kröfu launafólks um að launin verði að fullu verðbætt. Að því hefur AB ekki stefnt.

## Stefna og stefnufylgi

Jafnvel þó AB hafi sett sér stefnumið og auglýst þau, m.a. í forystugreinum í málgagninu, Þjóðviljanum, ber lítið á að stefnunni sé fylgt eftir. Í forystugrein Þjóðviljans 1. maí s.l. segir m.a.

"Eftir hörkuna og verkbannshótanir í kjölfar mannaskipta í valdastöðum vinnuveitendasambandsins er nú beitt smeðjulegu tali um velferð láglaunahópanna og samstöðuleysi innan verkalýðshreyfingarinnar. Á sama tíma neita atvinnurekendur að ræða leiðréttingar á kjörum láglaunafólks. Verkalýðshreyfingin þarf að koma atvinnurekendum í skilning um vilja sinn með markvissum aðgerðum á næstu vikum."

Nú eru liðnar meira en 9 vikur og ekki ber mikið á þessum markvissu aðgerðum sem leiðarahöfundur taldi þörf á þann 1. maí s.l. Var ritsmíð ekh. leiðarahöfundar gaspur eitt, sett fram án hugmynda um það sem forystan hafði á prjónunum, eða hvað?

Á öðrum stöðum virðist stefnufylgi vera fyrir hendi.

"Mér finnst brýnast að við setjumst nú niður og athugum rækilega hvaða umbætur er hægt að gera í málefnum opinberra starfsmanna og í þágu launafólks almennt, án þess að það gerist með beinum peningalaunahækkunum upp eftir öllum launastiganum." (Ragnar Arnalds í viðtali við Þjóðviljann 17. febr. 1980) Ragnar fylgir þessari stefnu fram af þunga og fær til þess ótrúlegt næði og stuðning foringjanna í AB.

Þegar á heildina er litið og auk þess horft til gangs s.l. ár verður sú spurning áleitin hvort Alþýðubandalagið sé flokkur sem standi með eða á móti launafólki í baráttu þess fyrir bættum lífskjörum. Nú á síðustu mánuðum er óhætt að segja að AB hafi í verki unnið gegn þeirri kröfugerð sem samtök launafólks settu fram fyrir yfirstandandi samninga.

–Æ.

inginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshr
inginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshr
inginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshreyfinginverkalýðshr

# Af samningamálum á Vestfjörðum

## *– rætt við Pétur Sigurðsson, forseta ASV*

Alþýðusamband Vestfjarða (ASV) hefur stundum farið sínar eigin leiðir í samningamálum. Fréttaritari Vbl. á Ísafirði hitti Pétur Sigurðsson, forseta ASV að máli og spurði hann um gang samningamála á Vestfjörðum. Hann sagði ASV vera aðila að stóra samflotinu fyrir sunnan. Þeir hefðu tekið þátt í þeirri kröfugerð og væru m.a. sammála þeirri stefnu ASÍ, að láta vísitölubæturnar jafna út launamun. Hlutverk ASV við gerð aðalkjarasamninga væri næsta lítið á þessu stigi málsins. Aftur á móti hefði ASV mótað sérkröfur fyrir vestfirsku félögin. Þær hefðu verið sendar atvinnurekendum fyrir skömmu og ekkert svar borist enn. Pétur taldi engin meiriháttar atriði vera í þeirri kröfugerð.

Eins og að líkum lætur var Pétur ekki ánægður með hægagang samningagerðar fyrir sunnan. "Þetta er óhentugur tími til að fylgja kröfugerðinni eftir. Samtök verkafólks misstu af strætisvagninum um og eftir áramótin með því að rugla saman samningum og stjórnarmyndun. Tíminn í vetur var ekki nýttur, þar sem meirihluti forystumanna ASÍ



Pétur Sigurðsson

studdi stjórnina og vildi gefa henni starfsfrið.

Það er ekki full eining um kröfurnar innan ASÍ og hefur allt of lítið verið unnið að því að samræma þau öfl sem þar deila. Vinnuveitendur hafa aftur á móti nýtt tímann vel til að hefja mikið áróðurs- og grátstríð um sína stöðu. Með lokun frystihúsanna og fleiri aðgerðum eru atvinnurekendur í raun og veru að sýna verkafólkinu hver eigi atvinnutækin. SH-hringurinn hefur opinberað það, að hann hefur líf okkar í hendi sér".

Pétur var því næst spurður, hvort hann áliti vandamál frystiiðnaðarins eins alvarleg og forráðamennirnir hafa haldið fram. Hann kvaðst ekki hafa aðgang að neinum gögnum til að meta það. "Verkafólk, sem hefur byggt upp þessi fyrirtæki með vinnu sinni, fær ekki að hnýsast í bókhald og rekstur fyrirtækjanna til að sjá hver staðan raunverulega sé. Bæjarfélagið, sem er stór hluthafi í sumum fyrirtækjunum, nýtir ekki réttinn til að fylgjast með rekstri fyrirtækjanna."

Frystihúsastjórnendur á Ísafirði urðu æfir, þegar verkalýðsfélagið lýsti yfir helgarvinnubanni yfir sumarmánuðina. Það leið þó ekki á löngu uns þeir tilkynntu sjálfir fyrstir allra á landinu, að fólk skyldi fara í mánaðar frí 20. júlí. Sumir voru þá þegar búnir að taka frí og er nú eftir að vita, hvað gert verður við það fólk. Lokunin bitnar þó mest á skólafólkinu, sem þarf að safna til vetrarins þessa fáu sumarmánuði.

Það var heldur dauft hljóðið í Pétri Sigurðssyni og það ríkti ró og kyrrð yfir skrifstofu ASV, alveg gagnstætt því sem var þremur mánuðum áður, þegar sjómannaverkfallið stóð sem hæst.

Fréttaritari

# Kína, Bettelheim og sósíalisminn

### skiptar skoðanir

Í tímariti MM no. 4 '79 birtist grein eftir Charles Bettelheim, um þróunina í Kína. Þar sem ég hef enga umræðu séð eða heyrt um greinina ákvað ég að senda VB bréf með athugasemdum og um leið innlegg í Kína – umræðuna.

Ég reyndi að lesa greinina með jákvæðu hugarfari (jafnvel þótt illræmdur Ólafur Gíslason hafi þýtt hana – ég verð vonandi leiðréttur ef það er ekki sá eini sanni Ólafur). Í fáum orðum sagt þykir mér ekki mikið til greinarinnar koma og hún sannfærði mig síður en svo um að Kína sé komið á braut kapitalisma, með nýja borgarastétt við stjórnvölinn. Greinin er uppfull af fantasíu eða uppspuna sem erfitt er að handleika í umræðu. Þessi uppspuni sver sig í ætt við stóran hluta þeirrar umræðu sem geysað hefur um Sovétríkin án þess þó að hafa fært menn mikið nær mikilvægum þáttum í greiningu á Sovétríkjunum. Það skal tekið fram að ég tel einungis tvennt skera sig óyggjandi frá sósíalisma í fari Sovétríkjanna, en það eru mannréttindamál (lýðræðið) og utanríkisstefnan.

Eigi að síður drepur Bettelheim á einstaka málum sem vert er að ræða. Hann lýsir sig ósammála því launakerfi sem nú tíðkast í Kína. Hann segir að bónuskerfið sé efnislegur hvati í stað pólitískrar vitundar fyrir þörfinni á auknum afköstum. Einnig telur hann bónuskerfið ala á sundrungu meðal launafólks (stéttarinnar). Ég tel þetta rétt að ákveðnu marki. Þó sé ég ekki hættuna á því að vinnandi alþýða í Kína skipti um stétt (geti talist til millistéttar) vegna afkomu sinnar, nema möguleikar fólks til tekjuaukningar í bónuskerfinu væru stórlega rýmkaðir. Mér skilst að hæsti bónus geti orðið einn þriðji af lágmarkslaunum í Kína eða tæplega þó. (Lágmarkslaun eru 41 yuan en hámarksbónus getur orðið 15 yuan) Ég las í VB um daginn að "normal" bónus í íslenskri skipasmíðastöð væri nálægt þriðjungi af launum.

Einhversstaðar las ég að launaþrepin í Kína væru 8 og er það e.t.v. frekar mikill launamismunur en valdamenn eru þó frekar lágir í launum og vel er fylgst með forréttindum þó eflaust finnist spilling ráðamanna á stöku stað. Þessar upplýsingar eru fengnar frá Kína-förum í maí í ár og hafa birst m.a. í Klassekampen.

Ég er sammála Bettelheim í því að pólitíska fræðslu þurfi að styðjast við í uppbyggingu sósíalisma en það er ný speki fyrir mér ef efnahagslegir hvatar skuli algerlega afnumdir. Viðtöl við kínverska verkamenn sem fyrrnefndir Kína-fara tóku virðast einnig benda til þess að umræða um efnahagsmál og sósíalíska uppbyggingu virðist dafna vel í Kína og er e.t.v. ekki of djúpt tekið í árinni að segja að hún sé þó nokkuð heit.

Þá segir Bettelheim að afturförin á tímum fjórmenninganna sé bara lygi og hann dregur í efa þörfina fyrir svo hraðri efnahagsuppbyggingu. Ég hef lesið nokkuð af opinberum tölum í þessu samhengi, sem segja allt aðra sögu, en hef þær ekki á takteinum og þætti mér vænt um að einhver sérfróður sendi frá sér nokkur orð um málið.

Annað sem ég lýsi eftir umfjöllun um er staðhæfing Bettelheims um hættuna á efnahagskreppum í Kína vegna "kapítalískrar upphleðslu auðmagns". Hann telur að svo hröð efnahagsuppbygging sem ekki er í tengslum við framleiðsluafstæðurnar og aukið hlutverk "vísindanna" og "sérfræðinganna" muni leiða til þessa. Ég bið um (hag-)fræðilega umfjöllun um þetta takk!

Að lokum gagnrýnir Bettelheim valdhafaskipti í Kína og í sósíalískum ríkjum almennt. Ég get verið mjög sammála honum í þessum efnum þar sem pukur, leynimakk, erfðaskrárkjaftæði, meðmælabull einstakra leiðtoga, sýndarmennska og annar skollaleikur virðist tíðkast. Í augum allrar alþýðu er þetta heldur dökkur blettur á sósíalismanum og væri einhver umræða um málið vel þegin.

Þetta eru þau atriði, sem mér virðast mikilvægust í grein Bettelheims. Reyndar tekur hann utanríkisstefnu Kínverja nokkuð fyrir og gagnrýnir 3-ja heima kenninguna. Þar sem talsverð umræða hefur farið fram um utanríkisstefnuna, auk þess sem ég er mjög sammála stefnu Kínverja í þeim efnum (og tel ekkert vafamál að hún sé sósíalísk) eyði ég engum orðum á það.

Með þökk fyrir birtinguna

Járnkarl.

# Til blaðs verkalýðsins

### lesendabréf

Ég er manneskja sem sel vinnu mína. Hef reyndar alltaf gert (eða síðastliðin 22 ár -2 ár í framhaldsnámi), en aldrei hef ég fundið hve ótrygg og um leið auðmjúk ég get orðið eins og í verkamannavinnu. Ég veit aldrei hvenær mér getur verið sagt upp þessu lifibrauði mínu, fyrir nú utan allt smotterí eins og veikindafrí, sumarfrí, aðbúnað allan á vinnustað. Vinnuálag unnið frá kl. 7.55 til kl. 23. Það virðist vera hægt að láta bjóða sér allt, jafnvel . kauplækkun.

Það eina jákvæða, sem íslensk atvinnustefna hefur upp á að bjóða, er atvinna, en hve dýru verði er hún ekki keypt, stundum.

Hvort er betra, vinnuþrælkun eða atvinnuleysi? Sennilega svarar þessu enginn, nema hálærður sálfræðingur eða verkamaður, sem hefur reynt hvort tveggja.

Ég hef aldrei skrifað ykkur fyrr, enda ekki verið einn úr verkalýðnum fyrr en nýlega (fyrir ári síðan),

Frh á bls. 2

# OFFRAMLEIÐSLA OG ÖRBIRGÐ

FRAMH. AF BAKSÍÐU

Íslenskir frystihúsaeigendur hafa þó ekki þurft að vera með hjartað í buxunum þrátt fyrir óöryggið. Þeim hefur ávallt tekist með hjálp ríkisstjórna og úrkynjaðra verkalýðsforingja að halda sínum hlut. Almenningur er látinn bera skaðann óbættan með almennri skerðingu kaupmáttar. Það er sjálfsagt einnig ætlunin nú.

## Engin góðgerðarstarfsemi

"Það vilja allir fá eins mikið og frekast er unnt fyrir vinnu sína. Við verðum því að selja fiskinn hæstbjóðenda. Fólk vill ekki standa í neinni góðgerðarstarfsemi". Eitthvað á þessa leið svaraði forstjóri frystihúss spurningu um það, hvers vegna ekki væri seldur meiri fiskur þangað, sem hann gæti bjargað milljónum mannslífa. Fáeinum dögum seinna las ég frétt um að áhafnir allmargra báta í Stykkishólmi hefðu ákveðið að gefa andvirði eins tonns af afla til að styrkja ákveðna foreldra til að koma barni í heilaaðgerð í Kaupmannahöfn. Gífurlegt sjálfboðaliðastarf og mikil fjárframlög fólks við nýafstaðnar forsetakosningar er í fersku minni. Ég fór að rifja upp fleiri slík dæmi, þar sem fólk hafði gefið vinnu og fjármuni til góðra málefna, hafandi tryggingu fyrir því að það kæmist í réttar hendur, en þar er efniviður í aðra grein.

Vitaskuld er fólk óviljugt til að hlaða undir ofalda ríkisbubba, eins og launavinnan neyðir það til að gera. En það gegnir öðru máli, þegar um björgun mannslífa eða almannaheill er að ræða. Þá leggur fólk sig allt fram og gerir litlar kröfur á móti.

Væntanlega eiga flestir þann draum, að matvælin, sem íslensk alþýða framleiðir, gagnist þeim, sem eru vannærðir. Þær þjóðir ættu að geta selt okkur ýmislegt gagnlegt á góðu verði, en einokun fjölþjóðaauðhringa á milliríkjaverslun er þar talsverð hindrun. Þó er hætt við, að kaupgeta okkar á ýmsum munaðarvörum yrði nokkuð skert, en hverju munar það, ef vinnan öðlast annan tilgang en þann einan að afla fjár til eigin þarfa?

Innan núverandi valdakerfis íslenskra stórbokka og erlendra auðhringja er allt slíkt fjarlægur draumur. Framundan er kaldranaleg varnarbarátta gegn kjaraskerðingaráformum yfirstéttarinnar og þar dugir engin undanlátssemi. En áðurnefndur draumur er hluti af stærri heild. Á ég þar við áformin um samfélag, þar sem umhyggja fyrir fjöldanum verður sett ofar brölti einstakra hópa til fjár og valda, áformin um sanna félagshyggju eða kommúnisma. Það er vonandi, að fólk fari að sækja í sig veðrið á þeim vettvangi eftir allt undanhaldið síðustu áratugi.

Þorvaldur Örn Árnason

*EIK(m-l) í jafnréttisbaráttunni*

# Villur leiðréttar



Baráttufundur 8. mars hreyfingarinnar 1978

## Bjartsýni í upphafi

Við stofnun EIK(m-l) 1975 var sérstaklega fjallað um jafnréttisbaráttuna. Samþykkt var ályktun um þau mál, lítil nefnd sett á laggirnar og hafið starf í Rauðsokkahreyfingunni.

## Lítil áhersla lögð á kvennastarfið

Félagar EIK(m-l) í Rauðsokkahreyfingunni komust brátt í andstöðu við nokkra félaga hennar. Þótti eikurum hreyfingin í heild vera of sáttfús við borgaralega verkalýðsforingja og karlfjandsamleg (feminísk) í yfirgnæfandi mæli, svo tvö dæmi séu nefnd. Einnig þótti þeim lýðræði og stjórn hreyfingarinnar í molum. Samtökin í heild stóðu hins vegar ekki nægilega vel að uppbyggingu kvennastarfsins í upphafi og lögðu litla krafta í það. Starf þeirra með Rauðsokkahreyfingunni hefði mátt vera mikið meira.

## Stuðningi hætt við Rauðsokkahreyfinguna

Þegar svo hluti Rauðsokkahreyfingarinnar hindraði útbreiðslu málgagns Rauðsokkahreyfingarinnar, Forvitin Rauð 1976, sauð uppúr. EIKarar réðust harkalega á Rsh. og Samtökin hættu öllum stuðningi við hana. Við teljum nú, að þó svo að Samtökin hafi haft fullan rétt á að gagnrýna Rsh. og viðbrögðin við Forvitinni Rauðri, þá hafi þau gengið of langt með því að hætta stuðningi sínum við hreyfinguna.

## "Vinstri" róttækni EIK(m-l)

Samtökin tóku upp úr þessu upp óvægnari gagnrýni á hreyfinguna, og lýstu því yfir að hreyfingin væri byggð á grunni karlfyrirlitningar og endurskoðunarstefnu og ekki verðug samstarfs. Í stað þessarar hörðu afstöðu, teljum við nú, að samtökin hefðu átt að vinna kvennastefnu sinni fylgi innan Rsh. og efla með því umræðuna um gagnrýnismálin. Með því móti hefði e.t.v. meira áorkast í kvennabaráttunni.

## Ár andstöðu við Rauðsokkahreyfinguna

Með haustinu 1976 unnu EIK(m-l) gegn Rsh. á fyrrgreindum forsendum. Samtökin litu alls ekki á hreyfinguna sem framsækna kvennahreyfingu. Þó voru raddir um slíkt – a.m.k. um að Rsh. væri verð samvinnu. Kom t.d. fram tillaga um samvinnu við Rsh. um 8.mars-aðgerðir á fyrsta fundi 8.mars-hreyfingarinnar 1978. Þessi tillaga var samþykkt, en ekki reynd í starfi. Ástæðurnar fyrir því má eflaust rekja að hluta til skorts á vilja 8.mars-hreyfingarinnar til samstarfs, enda var hreyfingin stofnuð af konum sem margar hverjar höfðu fælst frá Rsh.

## Yfirdrifin gagnrýni

Félagar EIK(m-l) skrifuðu mjög hafðorðar og gagnrýnar greinar í Verkalýðsblaðið og tímaritið Rauðliðann um Rauðsokkahreyfinguna. Ráðist var á lauslegt skipulag, ofurlýðræði, stjórnleysi, rangar hugmyndir um uppruna kvennakúgunar, um verkalýðsforystuna og heimsvaldastefnu risaveldanna o.fl. Voru þessi skrif byggð að mestu á reynslu EIK(m-l) af starfi Rsh. fram til áranna 76 og 77. Við teljum að þessi gagnrýni hafi verið rétt miðuð við framangreint tímabil í starfi Rsh., en hún var sett fram á rangan hátt og varð þ.a.l. umræðunum um kvennapólitík ekki til framdráttar, heldur þvert á móti. Svipað var upp á teningnum á kappræðufundi Rsh. og EIK(m-l) vorið 1979. Þá studdist EIK(m-l) að mestu við sitt gamla mat á hreyfingunni í stað þess að kynna sér stöðu hreyfingarinnar og þróun hennar í rúm tvö ár. Þetta gerði stöðu EIK(m-l) á fundinum mjög veika og lítið sem ekkert nýtt kom fram.

## Upphaf 8. mars hreyfingarinnar

EIK(m-l) beittu sér mjög fyrir stofnun 8.mars-hreyfingarinnar. Fyrst í stað var einungis um að ræða samtök um 8.mars-aðgerðir. Síðar tóku samtökin undir raddir innan 8.mars-hreyfingarinnar um að gera hreyfinguna að starfandi samtökum. 8.mars-hreyfingin átti að verða "réttari og betri" samtök en Rsh. Henni tókst að virkja konur utan raða EIK(m-l), sem ekki voru ánægðar með Rsh. og að standa fyrir ágætum aðgerðum 8.mars 1978. Gagnrýni 8.mars-hreyfingarinnar og EIK(m-l) á Rauðsokkahreyfinguna ýtti all nokkuð við henni og umræðunum um jafnréttisbaráttuna. Að því leyti hafði 8.mars-hreyfingin góðar hliðar, þó svo að umræðurnar hafi einkennst um of af sleggjudómum á báða bóga og magnað þannig óþarflega upp klofninginn í kvennahreyfingunni. Ekki má heldur gleyma góðu frumkvæði 8.mars-hreyfingarinnar að undirskriftasöfnun og samstarfi margra samtaka um dagvistarmál vorið 1979.

## Ný viðhorf

Það voru bæði eigin óskir félaga 8.mars-hreyfingarinnar og breytt afstaða eikara í kjölfar uppgjörs samtakanna við kreddufestu og einangrunarstefnu, sem leiddi til nýrrar samstöðu með Rsh. 8.mars 1979 unnu Rsh. og 8.mars-hreyfingin saman – ekki hnökralaust þó. Haustið 1979 og til ársbyrjunar 1980 eyddi 8.mars-hreyfingin tíma sínum í að endurmeta stöðu sína. Verkalýðsblaðið birti líka skoðanir félaga um margþætta jafnréttishreyfingu og nauðsyn þess að kommúnistar ynnu með Rauðsokkahreyfingunni. 8.mars-hreyfingin lagði sig niður í janúar 1980 (sjá Vbl. nr. 1980.) og félagar úr henni hafa nú gengið í Rsh.

## Mistök leiðrétt

Þessi ályktun, sem unnin er af framkvæmdarnefnd miðstjórnar og nokkrum félögum í EIK(m-l), er liður í að leiðrétta mistök samtakanna í jafnréttisbaráttunni. EIK(m-l) líta á Rauðsokkahreyfinguna sem framsækna kvennasamfylkingu með marga galla. Samtökin munu hafa sjálfstæða kvennastefnu, en innan Rsh. stefna þau að því að:

1. Efla baráttu fjöldans að jafnréttismálum.
2. Styrkja Rauðsokkahreyfinguna, skipulagslega, stefnulega og að félagatölu.
3. Berjast málefnalega gegn röngum stefnuatriðum eða vinna að því að Rsh. móti stefnu í málum þar sem stefnu vantar.

Unnið nokkru fyrir sameiningu EIK(m-l) og KFÍ(m-l). Birtist hér á vegum félaga úr EIK(m-l) sem nú eru í Kommúnistasamtökunum.

# Hvað finnst ykkur um Kína?

Afstaðan til Kína skiptir ekki sköpum í sósíalískri hreyfingu á Íslandi. Hún hefur reyndar ekki gert það ein sér en samt vegið þyngra en ástæða er til. Þetta er ekki sagt vegna þess að stefna kínverskra kommúnista og stjórnvalda hefur breyst undanfarin ár. Nei – annað kemur til. Kommúnistar virðast læra það smám saman að stuðningur við sósíalískt ríki eða samskipti við kommúnistaflokk verða að vera frjálslegri og varkárari en áður var. Ekki dettur mér í hug að setjast í fílabeinsturninn eins og margir yfirlýstir vinstri menn. Fyrir þeim er sósíalisminn algjört frelsi og jöfnuður. Meðan ekkert ríki uppfyllir skilyrði þeirra þá sitja þeir með fyrirlitningarsvip og heyja sitt einkastríð við vindmyllur. Þessi afstaða leiðir meira að segja til þess að margir verða ófærir um að gera upp á milli stefna eða ríkja. Þeir verða ófærir um að skoða þróun viðfangsefnanna og meta hvert stefnir. Raunar er almenn óvissa um þróun ríkja útbreidd, ekki vegna óraunhæfra krafna um frelsi og jöfnuð, heldur vegna skorts á upplýsingum. Eða þá að menn hafa ekki getað hugleitt málin.

Til að skoða Kína þarf tvennt í veganesti. Viðurkenningu á því að þróun þjóðmála er "hlykkjótt", þ.e.a.s. að vegna stéttaog skoðanabaráttu geta stefnubreytingar og þjóðmálasviptingar verið örar. Hitt er svo viðurkenning á því að reynslan sé mælikvarði á stefnur og því þurfi að reyna í verki það sem menn ákvarða.

Kommúnistasamtökin verða að taka mið af þessu og aðstæðum í Kína og annars staðar. Þau taka afstöðu til færri atburða og stefna en áður í Kína og taka sér lengri tíma til að dæma. Þau geta verið Kommúnistaflokki Kína ósammála um mörg atriði án þess að afskrifa flokkinn eða missa áttanna.

Kína er ennþá rautt. Munurinn á Kína og Sovétríkjunum sést best á mismunandi stöðu ríkjanna á alþjóðavettvangi og í hugum alþýðu manna.

Kommúnistasamtökin vilja móta nýja og sveigjanlega stefnu til Kína. Þau vilja leita álits fólks á Kína og fræðast af mörgum fróðum Kínaskoðendum.

Ég hvet lesendur VERKALÝÐSBLAÐSINS til að fjölmenna á fræðslu- og umræðufundinn um Kína. Kynnið ykkur auglýsinguna í blaðinu.

Ari Trausti Guðmundsson

## Fundur um Kína

Iðnvæðing, erlent auðmagn, bónuskerfi, endurreisn Líu Sjaósí, lýðræði, ný afstaða til stéttanna og Menningarbyltingin. Allt eru þetta umdeild atriði í fréttum og í orðræðum milli manna.

Kommúnistasamtökin efna til fræðslu- og umræðufundar um Kína. Þátttakendur í upphafi verða Kristján Guðlaugsson, Árni Bergmann, Arnþór Helgason o.fl. en að öðru leyti verður orðið laust. Fundurinn verður haldinn miðvikudaginn 23. júlí kl.20.30 í salnum í kjallara Hótel Heklu við Rauðarárstíg. Aðgangseyrir verður kr.300.- Kaffiveitingar.

Kommúnistasamtökin
– framkvæmdanefnd.

# Við byrjum á umhverfisvernd

Umhverfisvernd alls konar tekur sífellt meira rúm í hugum almennings. Aukinn áhugi er á því að vernda og fara vel með umhverfi sitt, jafnt náttúru landsins sem gömul íbúðahverfi. Í mörgum löndum hafa sprottið upp pólitískir hópar sem kenna sig við græna litinn. Baráttumál þessarra hópa eru mörg og margvísleg. Nægir þar að nefna baráttuna gegn kjarnorkuverum og baráttu fyrir breyttum lifnaðarháttum.

En hver er afstaða okkar kommúnista til umhverfisverndar? Mörg okkar hafa stutt aðgerðir til verndar gömlum húsum og til verndar landsvæðum. Og við höfum barist gegn stóriðju m.a. vegna mengunarhættu. En stefnumörkun okkar hefur verið lítil og ómarkviss. Sumir andstæðingar okkar halda því jafnvel fram að við séum einfaldlega á móti öllu.

Verður þetta með svipuðu sniði í sósíalísku þjóðskipulagi, eða látum við þá alla umhverfisvernd lönd og leið? Rífum gömul vinaleg hús og byggjum steinhallir í staðinn? Er það einungis vegna þess að við erum andvíg ríkjandi þjóðskipulagi, sem við erum á móti erlendri stóriðju og sumum virkjunum og hlynnt verndun gamalla húsa og

Frh. á bls. 2

Lausasala: kr. 400
Ársáskrift: kr. 6.000
Ársstuðningsáskr: kr. 12.000
Ársáskr. til útl: kr. 12.000

Verkalýðsblaðið
12. tbl. 9. árg. - 15.7 1980

# OFFRAMLEIÐSLA OG ÖRBIRGÐ



innlent viðhorf

Útlitið í efnahagsmálum er ekki bjart, frekar en vant er. Offramleiðsla í sjávarútvegi og landbúnaði á sama tíma og þriðjungur mannkyns sveltur. Of mikil fjárfesting í ýmsum greinum, en engir peningar til að búa vel að börnum og gamalmennum. Þeir ríku verða ríkari, en almenningur getur valið um yfirvinnu eða örbirgð. Verðbólguhjólið snýst og snýst sem tákn áfrahaldandi kreppu.

Eiginhagsmunir hafa ráðið þróuninni. Þeir sem komast til valda í félagi, fyrirtæki eða ríkiskerfinu, miða flestir athafnir sínar við að festa sjálfan sig og sína nánustu í sessi og maka krókinn meðan færi gefst. Kannske taka þeir undir með Lúðvíki XVI Frakkakonungi: "Syndafallið kemur eftir minn dag".

Talsvert hefur verið rætt um fjármálaspillingu, eins og t.d. ávísanamálið, skipakaupamálið, Kröfluævintýrið, Olíumalarævintýrið o.fl. Í slíkum málum er aldrei neinn sóttur til saka. Vilmundi var tíðrætt um þessi mál allt þar til hann var gerður að dómsmálaráðherra. Samtrygging forystumanna þjóðfélgsins er augljós, en almenningur er sundraður og hefur enga samtryggingu á móti.

Kraftar þjóðfélagsins (hvað þá mannkynsins) eru ekki samræmdir. Alls staðar getur að líta andstæður, sem virðast í fljótu bragði ósættanlegar. Lítum ögn nánar á málið.

## Offramleiðsla matvæla í hungruðum heimi

Á ári hverju deyja miljónir manna úr hungri og vannæringu í heiminum, aðallega börn. Enn fleiri líða kvalir af þessum sökum. A.m.k. 1/3 hluti jarðarbúa er talinn líða fyrir skort á vissum næringarefnum, aðallega eggjahvítuefnum (próteinum).

Íslendingar framleiða mikið af eggjahvítuauðugum matvælum: fiski, kjöti og mjólk. Eins og framleiðslunni er háttað í dag gætu Íslendingar fullnægt eggjahvítuþörf u.þ.b. 7 miljóna manna. Með betri stjórnun fiskveiða, aukinni nýtingu sjávaraflans beint til manneldis og áframhaldandi framförum í landbúnaði gæti þessi tala auðveldlega fjórfaldast. Í nýrri


Fiskiskipastóllinn er meira en nógu stór....


birgðir af óseljanlegum fiski hlaðast upp...


... á meðan meirihluti mannkyns líður skort

skýrslu frá FAO (matvælastofnun Sameinuðuþjóðanna) eru þjóðir heims hvattar til aukinnar fiskframleiðslu, þar sem eftirspurn eftir fiski aukist hraðar en framboðið og að eftirspurn sé ekki fullnægt nú. Á sama tíma kvarta forkólfar íslensks frystiiðnaðar sárt undan offramleiðslu.

Í þróunarlöndum er víða nóg framboð af jurtafæðu til að fullnægja þörfum manna fyrir orku (kolvetni), en eggjhvítuuppbót vantar tilfinnanlega, því jurtafæðan er tiltölulega próteinsnauð. Íslendingar gætu í náinni framtíð framleitt matvæli, sem nægðu sem eggjahvítuuppbót fyrir 50 miljón manns. Takið eftir, hér er um að ræða fólksfjölda, sem er 250 sinnum öll íslenska þjóðin! Hugsum okkur, ef hver og einn Íslendingur gæti með vinnu sinni komið í veg fyir að 250 manns biðu tjón á heilsu og kröftum sökum vannæringar! En hversu gagngerar breytingar þyrfti að gera á stjórn efnahagsmála hér til að slík kraftaverk geti gerst? Þeirri spurningu læt ég ósvarað að sinni.

(Allar tölur í þessum kafla eru gróf áætlun og byggja á tölum yfir framleiðslu í Landbúnaði og þó einkum sjávarútvrgi. Stuðst er við grein eftir Jónas Bjarnason frá 1977, sem birtist í lesörk Landverndar nr.2)

## Hvað verður um eggjahvítuframleiðslu Íslendinga?

Um 80% landbúnaðarafurðanna fer á innanlandsmarkað. Það, sem flutt er út fer aðallega til "ríkra" landa. Dæmi er um, að íslenskt mjólkurduft sé selt út sem skepnufóður fyir verð, sem nægir einungis til að borga flutningskostnað og sölulaun útflytjanda.

Meirihluti sjávaraflans er unninn í mjöl sem skepnufóður og munar þar mest um loðnuna. Við það að breyta loðnunni þannig í búfjárafurðir tapast mikið af eggjahvítu (nálægt 70%).

Innanlandsneysla sjávarafurða nemur aðeins afla 2 skuttogara. Allt hitt er flutt út. Ekki til að metta svanga maga, heldur þá sem ofaldir eru. Meirihluti sjávarafurðanna fer til Bandaríkjanna og megnið af því,sem þá er eftir, fer til nokkurra Evrópuríkja. Ætli skreiðarsala til Afríku sé ekki nánast eina dæmið um að íslenskar sjávarafurðir metti svanga maga, en þá ber þess að geta að lélegasta hráefnið er yfirleitt verkað í skreið.

Harðfiskur, sem seldur er á innanlandsmarkaði sannar, að hægt er að framleiða úrvals fæðu með því að þurrka gott hráefni. Tilraunir með þurrkun kolmunna standa yfir og lofa góðu. Líklegt má teljast, að þurrka mætti talsverðan hluta loðnuaflans, auk fleiri fisktegunda.

Hraðfrystar sjávarafurðir henta yfirleitt ekki vannærðu fólki í hlýju loftslagi, vegna skorts á kæligeymslum . Þetta fólk er, eins og aðrir, vanafast á mataræði og lítið vant hraðfrystum pakkamat, en margar þjóðir þekkja þurrkaða fæðu (þ.á.m. fisk) frá fornu fari.

## Íslenski fiskurinn munaðarvara

Einhver kann nú að segja, að ég leiti langt yfir skammt að vannærðu fólki, þar sem 1/4 af íbúum Bandaríkjanna og sumra Evrópuríkja séu vannærðir.

Því er þá til að svara, að þetta eru mest atvinnuleysingjar og fátæklingar, sem ekki hafa efni á að kaupa rándýran íslenskan fisk. Í Bandaríkjunum er ódýrara að kaupa innlent kjöt en íslenskan fisk. Það er að vísu undarlegt, þegar að því er gætt hve ódýr fiskurinn er hér á landi, þótt óniðurgreiddur sé.

Forstjóri fyrir stóru frystihúsi áætlaði, að verð fiskafurðanna tvöfaldaðist eftir að þær færu frá frystihúsunum hér á landi á Bandaríkjamarkað sem fullunnin vara í neytendaumbúðum (yfir 80% af þorskafurðunum fara héðan fullunnar). Þetta vekur sterkar grunsemdir um að hlutur skipafyrirtækja og þó einkum söluaðilanna (SÍS og SH) sé of stór og að nær væri að spara þar heldur en að senda fólkið í frystihúsunum heim strax og kreppir að.

## Hver ber ábyrgðina á vanda frystiiðnaðar?

Nú vaknar sú spurning, hvers vegna í ósköpunum íslensku sölufyrirtækin hafa vogað að gera landið svo háð Bandaríkjamarkaði, að sölutregða þar geti ógnað gróðahagsmunum íslenskra frystihúsa og atvinnuöryggi íslensks fiskvinnslufólks eins og raun ber vitni. Ástæðan er líkast til sú, að á Bandaríkjamarkaði fæst að jafnaði hæsta verðið, einkum fyrir mikið unnar þorskafurðir. Þessi markaður hefur brugðist nokkrum sinnum, enda er hér um lúxus-matvöru að ræða, sem bandarískir neytendur geta vel verið án.

FRAMH. Á SÍÐU 6

## Hækkað verð

Hér með neyðumst við til að tilkynna að verðið á Verkalýðsblaðinu hefur verið hækkað. Verðbólgan sér um sína!

Verð í lausasölu er nú kr. 400. Áskrift í eitt ár selst nú á kr. 6.000,- og stuðningsáskrift á kr. 12.000,-. Áskrifendur erlendis verða nú að kaupa blaðið á kr. 6.000,- fyrir árið auk sendingarkostnaðar, sem reiknast kr. 6.000,-, samtals kr. 12.000,- .

Við hvetjum áskrifendur til að greiða sem fyrst. Enn er of mikið útistandandi af áskriftargjöldum.

Nú á næstunni verður gert átak af hálfu blaðsins til að innheimta þessar skuldir. Við vonum að rukkunarmönnum verði vel tekið.

Verkalýðsblaðið verður ekki gefið út án þolanlegrar fjárhagsstöðu. Það verður heldur ekki bætt án þess að fjárhagsstaða þess batni og verði meir en þolanleg.

Tökum höndum saman og gerum Verkalýðsblaðið að góðu blaði!